# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga,*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

8. árg. WINNIPEG, APRÍL 1893. Nr. 2.

*UPPSTIGNINGARDAGSSÁLMR*
eftir *Nordal Bruun,*
þýddr á ísl. handa „Sam." af séra Valdemar Briem.

---

Um fjallið helga harpa mín skal óma;
þar hverfr jörð með öllum sínum blóma,
er stari eg í háan himingeim.
Þar Jesús stóð með sínum hinnsta sinni
og sveif upp þaðan burt frá veröldinni
til himins heim.

Eg horfi nú svo langt sem augað eygir,
en auga mannsins dyljast huldir vegir,
er herrann fór, er hvarf hann burt af jörð.
Þó getr sálin séð það, auga' er hulið,
hið svarta ský fær frelsarann ei dulið
guðs helgri hjörð.

Þig hef, mín sál, í himins dýrðar ljóma;
þar herrann ríkir æ með fögrum blóma.
Ó, lát ei heimsins heiðr tæla þig.

Guð setr á þig sigrdjásnið ljósa,
er sjálfir drottins englar mundu kjósa
að sœma sig.

Ó, heimr, far með hvað þú kallar gleði;
eg héðan af með fúsu' og ljúfu geði
vil þola lífsins byrðar, kross og bönd.
Ó, Jesú, þegar bresta lífsins böndin,
þá bjargi mér þín sterka líknarhöndin
og annist önd.

Eg þá mun upp til þín til himins fara
og þig fá séð með björtum engla skara,
er prísar æ þinn mikla guðdómsmátt,
og sjá þá borg, er lífs er byggð á landi,
og ljós guðs dýrðar, skært og síljómandi,
á himni hátt.

## *ÞRJÁR TEGUNDIR MANNA Í KIRKJUNNI.*

Ritgjörðarbrot eftir *Christopher Bruun*, þýtt af ritst. „Sam." úr tímaritinu „*For frisindet Christendom*" (II, 2).

Það er þrennskonar fólk í kristninni. Kjarna kristninnar myndar hinn sanni söfnuðr Jesú Krists, það er að segja þeir menn, sem fyrir eigin sæla lífsreynslu hafa lært Jesúm Krist að þekkja. Hann er þeim frelsan, hin eina, sem til er, frá synd, dauða og ríki satans. Þeir hafa fundið til lífsafls þess, er liggr í dauða hans, og þess, sem er enn þá meira: hinnar yfirgnæfandi andans auðlegðar, sem sprettr upp af upprisu hans. Þeir lifa í samfélagi með honum og vita, að hann er í þeim og þeir í honum. Þeir vita, hvað það er, að vera borgarar hins tilkomanda heims og ganga öruggt áfram til hinna miklu samfunda með konungi sínum.

En út frá þessum safnaðarkjarna er hópr manna, sem óttast guð á sama hátt og „hinir réttlátu" innan Ísraels til forna, en hafa ekki enn lært að þekkja kristindóminn eins og hann er í innsta eðli sínu eða með sínum fullkomna krafti. Hvað dauði

Krists og upprisa þýðir fyrir líf manns hið innra, er þeim enn leyndardómr, hversu oft sem þeir hafa heyrt um það talað og svo fjarri því sem þeir eru að hafa þar nokkuð til andmæla. En það er alvarleg ósk þeirra að geta varazt, að brjóta boðorð guðs. þeir vita vel, að þeir eru menn syndugir; það stendr sem ritað í hjörtum þeirra, að enginn, sem lifir, *geti* réttlátr verið fyrir guði. þeim skilst vel, að ekki sé nein taug til ómenguð í eðli þeirra, enda þótt þeir sé mjög fjarri því að hafa þá tilfinning af hinu skelfilega afli syndarinnar, sem þeir menn hafa, er lifa samlífi með Jesú, þannig, að hann er í þeim og þeir í honum. þeir standa yfir höfuð að tala, eins og vant er að orða það, á grundvelli *lögmálsins*, líkt og börn hins gamla sáttmála. En mönnum myndi skjátlast, ef þar af leiðanda skyldi vera litið svo á, að þeir láti guðs *náð* vera sér óviðkomandi. Einnig Ísraelsbörn þekktu náð guðs. þeir vissu, að Jehóva er „miskunnsamr og líknsamr guð, þolinmóðr, gœzkuríkr og trúfastr, sem auðsýnir gœzku í þúsund liðu og fyrirgefr misgjörðir, afbrot og syndir“ (2. Mós. 34, 6). Og þetta sama vita þessir Gyðingar kristninnar líka auðvitað. Og vel geta þeir menn til verið meðal þessa fólks, sem, þá er þeir standa augliti til auglits með syndum sínum, halda sér dauðahaldi í þessa náð guðs, er hann hefir opinberað þeim í orði sínu, alveg eins og Ísraelsmenn forðum gjörðu, án þess að hafa fundið til lífsafls þess, er liggr í blóði friðþægingarinnar, og án þess sá sannleikr hafi birzt þeim lifandi, að þessi náð er oss veitt í Jesú Kristi. Og svo sem þeir líkt og sannir Ísraelsmenn geta flúið til náðar guðs, svo geta þeir og elskað lögmál guðs eins og þeir. Hina brennheitu ást á lögmáli Jehóva, er gengr í gegn um sálma Davíðs og gamla testamentið í heild sinni, má að meira eða minna leyti hœglega finna mitt uppi í kristninni hjá fólki, sem enn á þó eftir að læra að þekkja „leyndardóm Krists“. Eg þori að segja þetta, því að svo árum skifti hefir þannig verið ástatt fyrir sjálfum mér og mörgum, sem eg þekki. Í stuttu máli að segja, þá geta þessir menn, að því er snertir hið innra líf þeirra í öllum aðalatriðum, nákvæmlega svarað til trúaðra og „réttlátra“ Ísraelsmanna. Munrinn er að eins sá, að Ísraelsmaðrinn trúði á Messías þann, er *koma myndi*, þar sem þessir menn trúa á Messías þann, er *kominn er*, og er þó hið innra eðli hans þeim enn fullkomin ráðgáta. En

svo sem hver sannr Ísraelsmaðr beið eftirvæntingarfullr eftir opinberan Messíasar, svo bíða þessir menn þeirrar stundar, þá er Kristr muni opinberast í hjörtum þeirra.

Út frá þessum hópi manna, sem mitt uppi í kristninni lifa sem sönn börn hins gamla sáttmála, er þriðji mannhóprinn, er svarar til Ísraelsmanna þeirra, sem „ekki óttuðust Jehóva“, án þess þó beinlínis að falla frá og dýrka hjáguði. Það eru menn, sem lifa eins og þeim veitir hœgast og helzt sýnist verða muni sér til hagsmuna, án nokkurrar verulegrar hugsunar um guð og eilífðina. Alloft geta þeir þó, einkum ef þeir eiga heima ofarlega í stiga mannfélagsins, verið lausir við stórgjörðar syndir hið ytra í lífinu, og einkum þær syndir, sem almenningi hlyti að verða kunnugt um. Og er eigi unnt, þá er svo stendr á, að varna því, að þessir menn sé kyrrir í kirkjunni, svo framarlega sem þeir ekki sjálfir af eigin hvöt kjósa það, að segja skilið við hana. Því yrði jafnvel eigi varnað, þótt kirkjan hefði eigi varpað frá sér valdi því til að skilja sig við opinbera stórsyndara, sem upphaflega heyrði henni til.

Í kristinni kirkju eru þannig þrír flokkar manna, hver út frá öðrum eins og í hring með sameiginlegum miðpunkti. Innst eru hin sannkölluðu börn hins nýja sáttmála, út frá þeim þeir menn, er standa á grundvelli hins gamla sáttmála, „undir lögmálinu“, og út frá þeim aftr fólk það, sem enn þá er óvakið og „án lögmáls“. Það er eins og hið *allra helgasta, hið heilaga* og *forgarðrinn* í musteri því, er guð í hinum nýja sáttmála hefir byggt sjálfum sér af lifandi steinum. En auk þess hefir kirkjan upp á eigin hönd bœtt við einskonar „heiðingja-forgarði“, þar sem opinberum stórsyndurum og afneitendum er leyft að búa. En sá forgarðr er viðaukabygging, sem alls ekki á heima í hinu andlega musteri eins og upphaflega var ákveðið að það skyldi vera.

---

## *ÞJÓÐARMEIN.*

Vér höfum nokkrum sinnum dregið fram ýmsa galla á þjóðlífi voru, sem oss fannst langtum of lítið tekið eftir af þeim, er öðrum fremr höfðu eða hafa köllun til að vaka yfir högum

þjóðarinnar, standa á verði og segja mönnum til þess, sem þjóðinni stendr mest hætta af. Og höfum vér vanalega í bráðina sætt meira eða minna snörpum mótmælum frá þessum sömu mönnum, sem sökum stöðu sinnar máttu kallast leiðtogar almennings. En er nokkuð hefir liðið frá, höfum vér vanalega haft þá gleði, að heyra eina röddina eftir aðra, iðulega einmitt frá þeim, sem upphaflega höfðu risið til andmæla gegn oss, endrtaka nákvæmlega hið sama, sem vér höfðum sagt, og oft jafnvel bœta við það svo og svo mörgu nýju líkrar eða sömu tegundar. Vér rituðum þannig á sínum tíma um íslenzkan „uppblástr,“ og óðar voru blöðin heima á Íslandi full upp af ritgjörðum, þar sem reynt var að sanna, að Ísland væri alls ekki að „blása upp“, hvorki í eiginlegum né óeiginlegum skilningi. En óðar en þau mótmæli voru liðin hjá, birtist ein greinin eftir aðra í blöðunum heima, þar sem einmitt er verið að frœða fólk um það, að skógarnir íslenzku, þessar litlu leifar, sem enn eru eftir, sé hraðförum að verða að engu og landið um leið að blása upp. Er í þessu sambandi helzt vert að muna eftir ýmsum greinum eftir hr. Sæmund Eyjólfsson, sem nú í síðustu tíð hefir verið að rannsaka uppblástrs-varnirnar á Jótlandi, með því að hann var upphaflega einhver helzti maðrinn, sem mótmælti því, er vér höfðum sagt. — Um íslenzkan „nihilismus“ töluðum vér opinberlega. Því var eigi síðr sterklega mótmælt, og var sem vér með því hefðum gjört oss seka í landráði. En svo rétt bráðum taka sum íslenzku blöðin og sumir þeirra, er mest láta almenning munnlega til sín heyra, til að bergmála það, sem vér höfðum sagt um þetta efni og sem þá helzt leit út fyrir að enginn íslenzkr ættjarðarvinr þar heima með nokkru móti þyldi að heyra. Af blöðum á Íslandi skulum vér í þessu sambandi að eins nefna „Ísafold“, það blaðið, sem langmest kveðr að og í flestum greinum er langt á undan öllum hinum. Allir, sem það hafa lesið, þeirra manna, er sárast tekr til þjóðlífsmeina vorra, hafa víst einatt með fögnuði dázt að því, hve skarplega þjóðinni hefir þar hvað eftir annað þessi síðustu ár verið refsað fyrir deyfðina og doðann, sem æfinlega vill þar verða þröskuldr í vegi fyrir sérhverju nytsemdarfyrirtœki. Og af mönnum heima á Íslandi, sem mest eru þar nú opinberlega talandi, viljum vér helzt nefna séra Ólaf Ólafsson, prest í Guttormshaga. Það er kunnugt, að sá maðr hefir í seinni

tíð flutt hvern fyrirlestrinn eftir annan út af nútíðarhögum þjóðarinnar, einkum og sér í lagi að því, er kemr til hins andlega lífs. Og að því, er sjá hefir mátt á blöðunum, þá virðist almenningr hafa gjört góðan róm að boðskap hans. En hvað hefir svo verið efnið í þeim boðskap? Aðallega einmitt hið sama og það, er áðr var komið frá oss og sem þá þótti mörgum þvílík dœmalaus fjarstœða: framtaksleysið í þjóðinni og hinn mikli skortr hjá henni á alvarlegri umhugsan um hennar eigin ástœður. Reyndar hefir fyrirlesari þessi ekki getað stillt sig um, upp á meiri manna móð, að skjóta inn í að minnsta eina af þessum refsirœðum sínum mótmælandi umkvörtun um aðfinningar vorar héðan að vestan gegn íslenzkum þjóðlífsgöllum; en það gjörir ekkert til; hann talar eins fyrir því með svo sterkum orðum, sem hann virðist hafa átt til í eigu sinni, gegn því, er vér einu sinni leyfðum oss að kalla íslenzkan „nihilismus". Svo hvað sem líðr öllum mótmælum gegn aðfinningum þeim frá oss og öðrum í hópi vorum hér, sem hér er um að rœða, þá megum vér glaðir þakka fyrir það, hve sterklega og margfaldlega athugasemdir vorar við þjóðlífsástandið á ættjörð vorri hafa verið viðrkenndar þar heima— athugasemdir, sem vér í dýpstu alvöru og eftir margprófaða umhugsan höfum fundið oss knúða til að koma fram með opinberlega.

Vér skulum nú ekki þreyta lesendr vora á því, að tína saman allar slíkar athugasemdir frá oss í liðinni tíð um það, sem oss hefir virzt viðsjált eða háskalegt í högum þjóðar vorrar. Að eins eitt skulum vér nú minna á. Þegar á fyrsta æfiári blaðs þessa tókum vér skýrt fram, hvílíka ógæfu það hefði í för með sér fyrir Ísland og íslenzku þjóðina, að úrvalið af námsmönnum hennar væri á ári hverju sent burt úr landinu til þess að mótast andlega á stað, sem eins og Kaupmannahöfn, samkvæmt því, er eldgömul reynsla hefir sýnt, hefir svo sorglega lítið því til varnar, að þessir ungu Íslendingar stórskemmist bæði í einn og annan máta. Oss var það reyndar ekki dulið þá, né heldr hefir oss nokkurn tíma síðan dulizt það, að ýmsir landar vorir hafa bæði á fyrri og síðari tíðum sókt margt virkilega gott til Kaupmannahafnar og hafa fyrir veru sína þar, að minnsta kosti meðfram, orðið hinir mestu nytsemdarmenn fyrir land sitt og lýð. En hitt stóð í huga vorum sem áreiðanlegr sannleikr eins fyrir

því, að þessar utanfarir Íslendinga hefði yfir höfuð svo mikið illt í för með sér, að brýn nauðsyn væri, ef eigi að hefta þær með öllu, þá að minnsta kosti að fá þær takmarkaðar að stórum mun. það gat virzt talsvert varasamt að hreifa annarri eins kenning og þessu. Maðr gat búizt við sterkum mótmælum gegn öðru eins nýmæli; því að allr þorri þeirra Íslendinga, er hæst eru settir í hinu íslenzka þjóðfélagi, hafa vitanlega menntazt í höfuðstað Danmerkr. Og gat því litið svo út, að þessi kenning vor væri persónuleg árás á allan þann mannflokk. En hvernig sem á því hefir staðið, þá heyrðist engin rödd til að mótmæla því, sem vér höfðum sagt um þetta efni, svo það mátti nærri því virðast sem þetta væri talað út úr hjarta íslenzkra menntamanna. Einn háttvirtr vinr vor, hr. Björn Jónsson, ritstjóri „Ísafoldar", gat þess reyndar eitt sinn við gefið tækifæri, jafnframt því að hann væri oss alveg samdóma um þetta mál, að hið sama hefði einatt áðr verið tekið fram þar heima bæði í ræðum og ritum[1]. Svo virzt gat, að hér væri ekki um neitt nýmæli að ræða og því ekki að neinu leyti til að hneykslast á. En að því er vér bezt vitum, var það þó nýmæli að því leyti, sem það var ein hlið á málinu, er naumast fyr hafði verið sinnt, en vér lögðum sérstaklega áherzlu á Hagr þjóðarinnar í trúarlegu og siðferðislegu tilliti hafði oss vitanlega aldrei verið settr í samband við háskólagöngu Íslendinga til Kaupmannahafnar fyr en vér hreifðum því máli. En engu að síðr sluppum vér algjörlega frá mótmælum. það, sem vér þá í þessu tilliti héldum fram, var það, að þessi háskólavist Íslendinga gjörði allan þorra þeirra að trúleysingjum. Lýstum vér því á sínum tíma, hve sorglega óheppileg væri flokkaskiftingin menntuðu mannanna þar í Danmörk og sérstaklega þar við háskólann, þar sem að einu leyti héldist í hendr frjálslyndi í stjórnmálum og vantrú á boðskap kristindómsins, og að hinu leyti trú og pólitiskr aftrhaldsandi. Enda væri sannleikrinn sá, að hinir tiltölulega fáu Íslendingar við háskólann danska eða frá honum, sem héldi sinni kristnu barnatrú, hölluðust yfir höfuð í ófrelsisáttina, að því er stjórnmál snerti, og hinsvegar hefði þeir af hinum háskólagengnu löndum vorum, sem ákafastir væri með pólitisku frelsi, jafnaðarlega horn í síðu kristindómsins. þessu varð nú vissulega ekki

1) Sjá „Menntunarástandið á Íslandi", Rvík 1890, II, bls. 37.

með rökum neitað, enda bar ekki á því, að neinn maðr reyndi það. Þvert á móti fóru nú að heyrast fleiri raddir í þá átt, að vegrinn til menntunar gegnum hinn danska háskóla væri mjög varúðarverðr fyrir Íslendinga. Þannig birtist t. a. m. skýrsla í einu Rvíkr-blaðinu („Þjóðólfi“ að oss minnir) frá mjög merkúm manni, sem þó ekki nafngreindi sig, en sem vér síðar fengum að vita að var séra Jón heitinn Steingrímsson, er með rökum sýndi, hve raunalega stórt brot af hópi íslenzkra námsmanna háskólagenginna jafnaðarlega týndist úr lestinni og yrði þjóð sinni að engu. Nokkru seinna[1] hóf „Sunnanfari“, hið íslenzka myndablað, göngu sína frá Kaupmannahöfn undir ritstjórn hins ötula frœðimanns dr. Jóns Þorkelssonar. Og var það eigi lítið gleðiefni, er vér í einu af fyrstu númerum blaðsins[2] fengum ritgjörð eina, saman setta af mesta dugnaði, um háskóla á Íslandi. Kemst ritstjórinn þar inn á sama efnið og vér höfum nú verið að tala um og segir meðal annars, að „það verði aldrei metið til peninga allt það manntjón, sem Ísland hafi beðið af þessum Hafnarferðum“. Og svo enn fremr þetta, sem oss finnst býsna rösklega ritað:

„Hvað margir ætli þeir séu, sem ef til vill hafa náð einhverju prófi og svo komizt í embætti, en hafa verið orðnir duglausir slæpingar, þegar ættjörðin fékk þá aftr og urðu aldrei nýtir menn? Og þá eru hinir ótaldir, sem verr hefir farið. En oss þykir óþarfi að gjöra tilraun til að reikna út, hve margir þeir hafa verið, en svara skulum vér, ef nokkur þorir að bera brigður á það, sem nú var næst talið, því það eru til œrin rök og sum allnærri, enda er þetta alkunna, því það er reyndar það sama, sem Norðmenn kvörtuðu um fyrir 1811. Þeir sendu eins og Íslendingar sonu sína til Kaupmannahafnar, hrausta og óskemmda drengi, en heimtu þá marga aftr eyðilagða menn, og svo var komið, að Norðmenn voru nær hættir að sœkja háskólann.“

Hann hefir áðr verið tekinn inn í „Sameininguna“, þessi greinarstúfr[3]. Og vér leggjum hann nú í annað sinn með ánœgju fram fyrir lesendr vora, því að hér er um mikið velferðarmál fyrir þjóð vora að rœða, og vér erum höfundinum samdóma um hvert einasta orð, sem hann segir á þessum stað.

1) Í Júlí 1891. 2) Fyrir Október 1891. 3) Í Febrúar 1892.

En svo kom nú fyrir ekki löngu[1] það atvik fyrir, að þetta sama blað „Sunnanfari" bar meðal annars á borð fyrir lesendr sína kvæði tvö og smásögu eina eftir einn Kaupmannahafnar-Íslendinginn, þar sem hann með nöprum og háðulegum orðum „velti sér yfir" kristindóm og kirkju og með þessu orðalagi sínu að sjálfsögðu stórhneykslaði þá lesendr blaðsins, sem enn bera lotning fyrir guðlegri opinberan kristindómsins. Auðsjáanlega hefir ritstjórinn haft hugmynd um, að þetta, er á tungumáli kristinna manna er kallað guðlast, myndi mörgum verða að hneykslunarhellu; um það ber dálítil ritstjórnar-athugasemd vott, er samferða var látin verða öðru kvæðinu. Það skilst, að hann lætr þessar „sendingar" í blaðið móti betri samvizku. Og svo getr hann þess, eftir að „Kirkjublaðið" í Reykjavík[2] hafði ofrlítið minnzt á þetta hneyksli, að það hafi verið eins og við mátti búast, að slíkt rit gæti ekki látið þetta orðalaust. En svo var líka „Sameiningin" skömmu áðr[3] komin með sína athugasemd um þetta mál og sýndi með skýrum og skörpum orðum fram á, að allir siðaðir menn, enda þótt þeir hefði kastað kristinni trú, teldi það fyrir neðan sig að fara með guðlast, og lét svo blaðið undran í ljósi yfir því, að ritstjórn „Sunnanfara" skyldi hafa getað fengið af sér að láta blað sitt bera annan eins óþverra út.

Það var við sama tœkifœri tekið fram í blaði þessu, hve ámátlega þetta uppátœki „Sunnanfara" stingi í stúf við þau ummæli blaðsins um Hafnarstúdentana íslenzku, sem vér tilfœrðum hér að framan. Og sannarlega skyldi maðr hafa mátt ætla, að blað, sem aðra eins lexíu hefir flutt um spilling íslenzkra námsmanna í Kaupmannahöfn[4], kœmi ekki undir sömu rit-

---

1) Í September og Október 1892. 2) Í Nóvember 1892.

3) Í September 1892. Séra Friðrik J. Bergmann annaðist þá eins og allt hið liðna ár í sjúkdómsforföllum vorum ritstjórn „Sameiningarinnar", en vér þurfum trauðla að geta þess, að vér erum þeirri grein hjartanlega samþykkir, enda berum vér á henni eins og öllu öðru í blaði þessu frá þeim tíma eftir séra Friðrik fullkomna ábyrgð. Má og þess hér geta, að stœði sá maðr fyrir liðinna ára samvinnu oss eigi eins nærri og hann gjörir, myndum vér opinberlega hafa þakkað honum af öllu hjarta fyrir hið ágæta verk, sem hann vann í vorn stað fyrir blað þetta alla þá löngu tíð, sem vér vorum gjörsamlega frá verkum.

4) Það væri í sambandi við þetta mál vel vert fyrir alla íslenzka ættjarðarvini, en allra helzt blaðamennina heima á Íslandi og aðra fremstu leiðtoga þjóðarinnar í andlegum efnum, að renna augum sínum yfir ritgjörð eina um „*Den dannede Liderlighed*" eftir *Christopher Bruun*, hinn góðfræga frelsisvin og kristindómstalsmann í Noregi, í tímariti hans „*For frisindet Christendom*", 3. árg., nr. 8.

stjórninni að eins löku ári seinna með aðra eins eitraða spillingarávexti eins og þessi guðleysissamsuða í bundinni og óbundinni rœðu eftir Þorstein þennan Erlingsson. Því að án alls tillits til þess, hvort ritstjórar „Sunnanfara“ (því þeir eru nú orðnir tveir) eru trúaðir menn eða vantrúaðir, þá finnst oss þeir ætti að hafa tekið eftir því, að þeir Íslendingar, sem dýpst hafa sokkið í siðferðislega spilling þar í Höfn eins og annarsstaðar, hafa yfir höfuð að tala áðr en þeir sukku þannig verið búnir að varpa frá sér trú kristindómsins. Vér segjum auðvitað ekki, að allir, sem trúnni hafa kastað, hafi siðferðislega lent í sorpið; en hitt þorum vér að fullyrða bæði um íslenzku Hafnarstúdentana og aðra, sem siðferðislega hafa „farið í hundana“, — svo vér viðhöfum það alþekkta orðatiltœki, — að þeir hafa áðr verið búnir að líða trúarlegt skipbrot.

Allt þetta, sem nú er sagt um þetta mál, leiddumst vér til að koma með út af þeirri frétt í nýkomnum „Sunnanfara“[1]), að Íslendingrinn, sem blaðið hafði guðleysis-kvæðin og hina andstyggilegu smásögu frá, hafi, út af því, er „Sameiningin“ sagði í haust um þetta athœfi, verið heiðraðr með nokkurra króna glaðning frá fjörutíu andlegum brœðrum hans meðal Íslendinga þar í kongsins Kaupmannahöfn. „Sameiningin“ á það þá á sinni samvizku, að Þorsteinn Erlingsson er orðinn píslarvottr íslenzkrar Kaupmannahafnar-vantrúar. Heldr þarf nú lítið að koma við vantrúna hjá þessum löndum vorum við hinn danska Mímisbrunn til þess að þeir gefi hljóð frá sér! Og heldr þarf líka lítið til þess að verða skoðaðr píslarvottr vantrúarmegin!

„Sunnanfari“ hefir þakkir að fœra „Sameiningunni“, fyrst og fremst fyrir píslarvottsglaðninguna, sem Þorsteinn Erlingsson fékk frá sínum fjörutíu elskulegu vantrúarbrœðrum út úr því, sem „Sam.“ sagði, og þar næst í sínu eigin nafni fyrir fjölgandi styrktarmenn út af hinu sama. Vér höfum til þessa fyrst það að segja, að vér samfögnum hr. Þorsteini út af því fyrir tilverknað „Sameiningarinnar“ að hafa nú þessar krónur til að moða úr og þurfa svo ekki, að minnsta kosti á meðan þær hrökkva, að leita neinna lakari fjárfanga sér til viðrlífs. Og þar næst getum vér líka glaðzt af því, ef það er satt, að „Sunnanfari“ er að fá meiri útbreiðslu, hvort sem það er oss að þakka

1) Frá síðast liðnum mánuði.

eða öðrum. Því að bæði er það, að ýmislegt gott hefir staðið í blaðinu, sem vel verðskuldar það, að það sé lesið af sem flestum; og í annan stað var nauðsynlegt, að það kœmi einu sinni út nœgilega svart á hvítu, hve mögnuð vantrú getur verið til í hópi íslenzku stúdentanna í Kaupmannahöfn. Nú er í því efni sjón sögu ríkari, og má þá opinberan þakka „Sunnanfara" á undan öllum öðrum. Ekki svo að skilja, að vér óskum nú beinlínis eftir meiru sömu tegundar. Því nóg er vissulega þegar komið því til sönnunar, sem „Sunnanfari" upphaflega sagði, að „það verðr aldrei metið til peninga, það manntjón, sem Ísland hefir beðið af þessum Hafnarferðum". Vér vonum, að það verði heima á Íslandi fyrir þá opinberan, sem „Sunnanfari" hefir komið með, hér eftir meira en áðr farið að líta eftir framtíðarvoninni í íslenzkum stúdentum í Kaupmannahöfn, og ef sú von rœtist, þá hefir jafnvel hin svarta hlið á „Sunnanfara" ekki verið til ónýtis.

Annars er gleði að taka eftir því, að þrátt fyrir þann gutt, sem hlaupið hefir í „Sunnanfara" við oss út af aðfinningum vorum, þá er eins og ritstjórn blaðsins sé líka á því, að nóg sé komið af vantrúarmáli, því nokkuð er það, að ekki hefir í síðustu tíð kennt neinnar vonzku á móti kristindóminum í því, sem blaðið hefir haft meðferðis frá Þorsteini Erlingssyni eða neinum öðrum. Og af því að sem sagt nóg var komið til að sýna þjóðinni andann í hinum hálærða íslenzka Hafnarlýð, þá er síðr en svo, að vér misvirðum þetta vantrúarhvarf í hinum seinni blöðum „Sunnanfara" að neinu leyti við ritstjórnina.

## *FERMINGARSÁLMR*

eftir séra Lárus Halldórsson, sendr „Sam." af höfundinum.

Á sáttmálans heilögu hátíðarstund
í hús guðs vér komum með glaðværa lund.
Legg, faðir vor, börnunum blessun og lið,
sem binda nú hjörtu sín frelsarann við.

Þér, faðir vor himneski, felum vér nú
þann fjársjóð, er áðr oss beztan gafst þú.
Ó, annast og blessa vor elskuðu börn
og athvarf þeim vertu og fullnaðarvörn.

Fyll hjörtun hin ungu með himneskum frið;
þinn heilagan anda lát veita þeim lið.
Hann freisting þau verji og falli og synd,
en falli þau, sýni' hann þeim lausnarans mynd.

þitt blessaða orðið þeim búi í sál
og beri þess vottinn við athöfn og mál,
að frelsarans dœmi og frelsandi náð
þeim fast sé í huga í lengd og í bráð.

Heyr játningu góða, sem gjöra þau brátt,
æ, gæt þeirra' og haltu þeim rétta við átt;
Í von, trú og kærleik þau varðveit og geym,
að vegferðarlokum svo komist þau heim.

Já, heim til þín upp yfir hættur og fár
öll hrósandi sigri' eftir afþerruð tár
leið börnin vor, faðir, vér biðjum þess nú,
vér biðjum þess allir í frelsarans trú.

þú oss gafst, vor faðir, þinn eingetinn son,
vort athvarfið bezta og huggun og von.
Svo aftr þér gefum vor ástkæru börn;
um æfina lausnarinn þeirra sé vörn.

---

## *BEECHER OG INGERSOLL.*

*Ingersoll* var eitt sinn að heimboði með hinum nafnfræga presti *Henry Ward Beecher*; auk þeirra voru einir 4 eða 5 aðrir nafnkunnir menn þar saman komnir. Mesti fjöldi af málum bar á góma, og fór þar fram vörn og sókn fimlega mjög, eins og við var að búast, en trúarbrögðunum höfðu menn enn þá ekki komið nærri, og var hinn andríki „fríþenkjari“ auðvitað of kurteis til þess sjálfr að vekja máls á því efni. En einn af gestunum langaði til að koma þeim saman, Ingersoll og Beecher, og laumaði að háðglósu einni um „kreddur“ Ingersolls, eins og hann komst að orði. Ingersoll varð ekki orðfátt, heldr varði hann sig mælskulega, eins og honum er tamt. Ýmsir tóku nú til máls á móti honum, en Beecher steinþagði. Sá, sem vakið hafði

máls á þessu efni í von um að Beecher mundi gefa Ingersoll ráðning, spurði að síðustu: „Mr. Beecher, hafið þér ekkert að segja um þetta efni?"

Gamli maðrinn rétti hœgt og stillilega úr sér og sagði: „Ekki neitt. En ef þér viljið leyfa mér að fara að tala um annað, skal eg segja yðr, að meðan þér voruð að þrátta, var eg að hugsa um mjög sorglegt atvik, sem eg var sjónarvottr að í dag."

„Hvað var það?" spurði Ingersoll, sem alkunnr er fyrir viðkvæmni sína.

„þegar eg gekk í dag ofan til borgarinnar," sagði Beecher, „sá eg aumingja haltan mann, sem með mikilli áreynslu var að reyna að komast yfir forarpoll á hœkjum sínum, svo hann gæti gengið þurrum fótum hinum megin við veginn. Hann var kominn út í miðjan pollinn, þegar stór og sterkr dóni, er sjálfr var alþakinn for og leðju, kom og hratt honum, tók hœkjurnar hans, kastaði þeim langar leiðir og skildi hann svo eftir alveg hjálparlausan, fálmanda fyrir sér í forarpollinum, þar sem hann var að því kominn að drukkna."

„Skárri var það nú þorparinn!" sagði Ingersoll, og tóku allir undir það með honum.

„Já," sagði Beecher og stóð um leið upp úr sæti sínu — „já, Mr. Ingersoll, og þér eruð maðrinn. Sál mannsins er fóthrum, en trúarbrögðin gefa henni hœkjur, svo hún geti dregið sig áfram eftir stígum lífsins. það eru kenningar yðar, sem varpa þessum hœkjum burt og skilja mannssálina eftir eins og hjálparlausan aumingja í díki örvæntingarinnar. Ef þér álítið það köllun yðar, að svifta mannssálirnar einu stoðinni, sem þær eiga hér á jörðinni, — trúarbrögðunum, þá haldið henni eins lengi áfram eins og þér hafið ánœgju af. það þarf æfðan byggingameistara til að reisa vandað og varanlegt hús. En það þarf ekki nema auðvirðilegan þorpara til að kveykja í því og láta það brenna til kaldra kola." (Fr. J. B.)

---

Hinn litli lúterski söfnuðr í Selkirk hér í Manitoba missti í fyrra kirkju sína á einkennilegan hátt. Fyrir tilstilli varaforseta kirkjufélags vors, séra Friðriks J. Bergmanns, komst í

fyrra vetr sú samþykkt á meðal hinna tveggja flokka í söfnuði Selkirk-manna, að láta ágreiningsmálið út af hinni heimildarlausu prédikan séra Magnúsar Skaftasens í kirkju safnaðarins bíða þangað til á næsta kirkjuþingi. En þvert ofan í samþykkt þessa komu mennirnir, sem upphaflega höfðu kveykt ófriðinn þar í söfnuðinum og mest hlynnt að vantrú séra Magnúsar, því til leiðar, að söfnuðrinn löngu fyrir kirkjuþing var sagðr úr kirkjufélaginu, án alls tillits til þess, að all-mikill hluti þessa sama safnaðar var algjörlega á móti því ódrengilega og óheillavæna uppátœki. Með því að þetta safnaðarbrot, sem á móti var, var tiltölulega fámennt, bjuggust heitrofarnir við því, að sá partr myndi að sjálfsögðu gefast upp og að um lúterskan söfnuð í Selkirk, standandi í kirkjufélaginu, yrði svo eigi framar að tala. En þeim brást hér sín bogalist. Hinn litli lúterski Selkirk-söfnuðr hélt sér, eins og ekki hefði í skorizt, og sendi mann á kirkjuþing, enda var úrganga safnaðarheildarinnar úr kirkjufélaginu að sjálfsögðu dœmd markleysa ein. En um leið og meiri hlutinn, sem upphlaupsmennirnir drógu með sér, skildi sig frá söfnuðinum, köstuðu þessir utanveltumenn eign sinni á kirkjuna eða guðsþjónustuhúsið, sem söfnuðrinn hafði komið sér upp fyrir fám árum, og notuðu það eins og það væri lögleg eign þeirra, og neyddist þá hinn rétti kirkjueigandi, lúterski söfnuðrinn, til að lána skólahús nokkurt fyrir guðsorðasamkomur sínar. Þannig leið og beið þangað til nú í vetr nokkru eftir nýár. Þá gjörðu sömu mennirnir, sem áðr höfðu fengið meira hluta fólksins til að ganga úr hinum lúterska söfnuði, tilraun til að fá hina lútersku safnaðarmenn inn í sinn hóp, vitandi, að ef það heppnaðist, myndi þeir fá þá yfirbugaða með atkvæðafjölda. En þessi tilraun misheppnaðist, og leiddi að eins til þess, að hinn lúterski söfnuðr fór að brjótast í því, að ná aftr kirkju sinni úr höndum andstœðinganna ásamt lóðarbletti þeim, er kirkjan stendr á. Þetta hefir hvorttveggja tekizt, svo kirkjan er nú aftr komin í hendr hinna réttu eigenda. Hérlendr maðr, sem söfnuðrinn upphaflega fékk kirkjulóðina frá, hefir nýlega gefið söfnuðinum eignarbréf fyrir lóðinni og í því ákveðið, að blettr sá sé eign lútersks safnaðar Íslendinga þar á staðnum, er standi í hinu íslenzka lúterska kirkjufélagi hér í landi, þannig, að breyti söfnuðrinn trúarjátning sinni eða segi skilið við nefnt

kirkjufélag, þá hverfr landeign þessi aftr til þess manns eða erfingja hans, sem upphaflega lét hana af hendi við söfnuðinn.— Er vonanda, að hinn litli lúterski Selkirk-söfnuðr fái nú í friði að halda kirkjueign sinni, bæði húsinu og lóðinni.

---

Um áramótin, þá er ritstjóri blaðs þessa tók aftr sjálfr við ritstjórninni, gleymdist alveg að geta þess í fréttaskyni, að kirkja hins íslenzka safnaðar í Marshall í Minnesota-ríki, sem er einn hluti af prestakalli séra N. Steingríms þorlákssonar, var þá skömmu áðr komin upp að nýju. Hefir guðshús þetta verið reist í stað kirkjunnar, sem söfnuðrinn hafði nýlega komið sér upp, þá er kirkjufélag vort hélt hið sjöunda ársþing sitt árið 1891; en það eyðilagðist í óveðri í fyrra. Hin endrreista kirkja í Marshall er að stœrð 24x32x14 fet með einkar snotrum turni og að öllu vandaðra og smekklegra hús en hin fyrri kirkja. Var hin nýja kirkja fullgjör, þá er séra Steingrímr prédikaði þar í fyrsta sinni 4. sunnud. í aðventu, að því undanteknu, að hún var enn ómáluð.

---

Í ár eru 300 ár liðin síðan lútersk trú var fyrir fullt og fast innleidd í Svíþjóð. það var á fjölmennri kirkjulegri samkomu í Uppsölum árið 1593, að tekin var sú þýðingarmikla ályktan, að gjöra Ágsborgarjátninguna að trúarjátning sœnsku þjóðarinnar, og hefir Svíþjóð síðan verið lúterskt land. Í minning um þetta stórmerkilega atriði í þjóðarsögu Svía heldr hin sœnska Ágústana-sýnóda í næst komanda Júnímánuði viðhafnarmikla júbílhátíð í Rock Island, stjórnarsetri Illinois-ríkis í Bandaríkjum, þar sem fremsta menntastofnan þess kirkjufélags á heima, og á enn fleiri stöðum. Hefir til þessara hátíðarhalda auk annarra merkismanna heiman úr Svíþjóð verið boðið *von Sheele* biskupi, sem er einhver helzti guðfrœðingr og kirkjulegi rithöfundr Svía. Er hann væntanlegr til New York snemma í Maí, og býst við áðr en júbílhátíðin verðr haldin að heimsœkja Chicago til að sjá heimssýninguna miklu, ferðast vestr til Kansas og víðar, þar sem eru aðalbyggðir Svía hér vestan hafs.

---

Eftir því, sem hið lúterska blað *The Workman* segir frá, er á þessum tíma sýnileg tilhneging meðal allmargra Únítara í

Nýja-Englands-ríkjunum til að fœra sig nær virkilegum evangeliskum kristindómi. Rit eitt nýútkomið þar eystra, er nefnist „*In spirit and in truth*“, með ritgjörðum eftir sjö unga heldri kennimenn Únítara, þykir bera þess ljósan vott. Kœmist eitthvað svipaðr andi inn í þá deild ameríkönsku Únítaranna, sem hinir svo kölluðu íslenzku Únítarar hér hjá oss fá forsorgun frá, þá fœri freistingin að verða heldr lítil fyrir þá einstöku Íslendinga, sem gjörsamlega hafa kastað allri guðstrú, að bindast fóstbrœðralagi við þann flokk. Slíkir menn eiga ekki samsuðu við aðra Únítara en þá, sem í vantrúarlegu tilliti eru að vaxa niðr á við.

---

Síðan um nýár hefir sœnskt lúterskt kirkjublað komið út hér í Winnipeg. það er mánaðarrit og heitir *Sions Väktare*. Ritstjórinn er séra Udden, prestr sœnsku kirkjunnar, sem vígð var í haust.

---

Ágústana-sýnódan sœnska er á leiðinni með að stofna nýtt *college* í Chicago. það á að heita *Martin Luther College*, og kennsla í neðstu bekkjum þess á að byrja í haust.

Annað nýtt *college* ensk-lúterskt er hin unga enska Missouri-sýnóda, dóttir Missouri-sýnódunnar þýzku, að stofna í bœnum Winfield í Kansas. þýzkr leikmaðr einn auðugr hefir gefið til þess landblett í þeim bœ og stórsummu í peningum.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; annar ársfjórðungr 1893.

10. lexía, sunnud. 4. Júní: Lotning og trúmennska (Préd. 5, 1—12).
11. lexía, sunnud. 11. Júní: Hugsa til skaparans (Préd. 12, 1—7 og 13—14).
12. lexía, sunnud. 18. Júní: Ríki Messíasar (Mal. 3, 1—12).
13. lexía, sunnud. 25. Júní: Yfirlit.

---



,,SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.